7. Dramblátum setur Drottinn' skamt, með djørfúng sína' og hrecki, þeim lídst svo sem hann leyfir framt, lengra komast þeir ecki; allt skal mitt traust, efunarlaust, á hans makt jafnan standa, hvað munu mér, þá mennirner, mega í nockru granda?

8. Í þrennslags túngum var þetta skráð, hvíað vor Herrann mildi, vildi sín elska, ást og náð, allri þjóð birtast skyldi; hvert túngumál, með huga' og sál, heidri þig, Jesú gódi! sem qvølin þín, og krossins pín, keypti frá synda módi.

9. Gefdú að módurmálið mitt, minn Drottinn! þess eg beidi, frá allri villu klárt og qvitt, krossins orð þitt útbreidi, um landið hér, til heidurs þér, helst mun það blessun valda, meðan þín náð, lætur vort lað, lýði og bygdum halda.

10. Handskrift var ein yfir høfdi mér, hún mína sálu grætti, ennur stóð, Jesú! yfir þér, sem ángur vors hjarta bætti; Jesú! þú ert, útvalinn bert, undir Kóngsstjórnun þinni, árla og síð, um alla tíð, óhætt er sálu minni.

## 36. Sálmur.

Lagid: Hvar mundi vera hjartad mitt.

Stríds-menn þá höfdu krossfest Krist, klædnad hans tóku snart, skiptu í stadi fjóra fyrst, fá skyldi hverr sinn part, á kyrtil prjónadann ljóst med list, lögdu þeir hlutfall djarft, fólskuverk medan fullgjördist, fólkid á horfdi margt.

2. Ritning sú eina uppfyllt er, ádur var þar um skráð: skrúda mínum þeir skiptu sér, skirlega þad er tjád: hlutfallid yfir fat mitt fer, sæ eg þess einninn gád. Set madur slíkt fyrir sjónir þér, sjá Drottins miklu nád.

3. Nú máttu skilja nakinn var, negldur Drottinn á kross, opinbert sáu allir þar, útrunninn dreyra-foss; svoddan forsmán Guds Sonur bar, sannlega fyrir oss, hér gefst ollum án hylmíngar, himneskt miskunar hnoss.

4. Kalla eg merki klædin hans, Kristnina' í heimi hér, um fjórar áttir foldar-ranns, flockur sá dreifdi sér; líf-kyrtill þessi Lausnarans, líknar-ord blessad

er, vilji því skipta skynsemd manns, skilníng sannleiksins hver.

5. Ei lét vor Drottinn audlegd há, eptir í þessum heim, klædin, sem hann bar holti á, en hverki gull né seim, þó mátti ei hans módir fá, hid minnsta' af öllum þeim, íllir menn hendi yfir þau slá, aldrei því dæmi gleym.

6. Safna hóflega heimsins aud, hugsýkin sturlar ged; þygg af Drottni þitt daglegt braud, duga lát þér þar med; holdid þá jerdin hylur raud, hlotnast má ýmsum féd, svo þig ei ginni girndin snaud, gæt vel hvad hér er skéd.

7. Stríds-manna heipt og hardýdge, Herrans qvöl gat ei mýkt, þó viti nóg hann særdur sé, sinnid var íllsku-ríkt. Þeir, sem fátækann firra fé, fólsku-verk drýgja slíkt; Gud láti þig ei glæp þann ské, þú gjörir annad þvílíkt!

8. Nakinn á krossi héckstú hér, Herra minn Gud og mann! fullnadar borgun fengin er, fyrir mig syndugann, þá fórn Drottinn og sál mín sjer, sú gledst en blídkast hann, brúdkaups klædnad tilbjóstú mér, þann besta' eg girnast kann.

9. Hentuglega féll hlutur sá, Herra minn Jesú kjær! Þú létst mig aumann finna' og fá, fagnaðar orð þín skjær, þeim klæðafaldi þreifa' eg á, þegar mig hrigðin slær, straumur eymdanna stødvast þá, styrk nýjann hjartað fær.

10. Hér þó nú skipti heimurinn, hlæandi auði sín, endast sá glaumur eitthvert sinn, þá æfin lífsins dvín; mér láttú hlotnast, Herra minn! hlutfall nærst krossi þín, svo dýrðar fegursti dreyri þinn, drjúpi á sálu mín!

## 37. Sálmur.

Lagið: Væri nú Guð oss ecki hjá.

Uppreistum krossi Herrans hjá, hans móðir standa náði, sverðið, sem fyrr réð Simeon spá, sál og líf hennar þjáði, Jóhannes einnig Jesú kjær, jafnt var þar lika staddur nær, gløggt sá að øllu gáði.

2. Sinni móður hann segja réð: Son þinn lít þú þar qvinna; við lærisveininn lika með, Lausnarinn

blídt nam inna: sjá þú og módur þína þar, þadan í frá (sem skyldugt var), sá tók hana til sinna.

3. Sá sem hlýdninnar setti bod, sinni blessun réd heita, þeim er foreldrum styrk og stod, stunda med elsku' ad veita; svodd-an dygdanna dæmid hér, Drottinn vor sjálfur gaf af sér, bernunum eptir ad breyta.

4. Girnist þú, barn mitt! blessun fá, bjørg lífs og gæfu sina, foreldrum skaltú þínum þá, þóknun ag hlýdni sína; úngdóms þverlyndid optast nær, ólucku' og slis ad launum fær, hreckvísa hefnd-ir pína.

5. Eckjurnar finna einninn hér, ágæt-is huggun blída; Jesús allt þeirra ángur sjer, umsjón þeim veitir frída, ef þær med hreinum hug' og sid, halda sig Drottins pínu vid, og hans hjálprædis bída.

6. María Drottins módir kjær, merkir Guds kristni sanna, undir krossinum opt-astnær, ángur og sorg má kanna, til hennar lítur þó Herrann hirt, huggunar ordid sendir dýrt, og forsjón frómra manna.

7. Þad reynist opt í heimi hér, hlut-fall Drottins ástvina, hörmúnga sverdsid sárt þá sker, sæld lífsins gledur hina, hverjir þó Kristum hata mest, hefir þad laungum vidgengest, lítt vill því ángri lina.

8. Enn þeir, sem Jesúm elska' af rót, undir hans krossi standa, Herrans blód-fadmi horfa mót, hvern þeir líta í anda, trúar og vonar sjónin sett, sár hans og benjar skoda rétt, þad mýkir mein og vanda.

9. Jesús einninn med ást og nád, aptur til þeirra lítur, gefur hugsvølun hjálp og rád, harma-bønd af þeim slít-ur, adgætin fedurs augun klár, øll reiknar sinna barna tár, adstod þau aldrei þrýtur.

10. Jeg lít beint á þig, Jesú minn! jafnan þá hrigdin særir; í mínum krossi krossinn þinn, kroptuglega mig nærir; sérhvert einasta sárid þitt, sannlega grædir hjartad mitt, og nýann føgnud færir.

11. Þá eg andvarpa, óska' og bid, augunum trúar minnar, lít eg hvert

einast' ordid vid, upp til kross-pínu þinnar, strax sýna mér þín signud sár, syndugum manni opin stár, brunnur blessunarinnar!

12. Gledistund holds þá géfur mér, Gud minn ad vilja sínum, uppá þig, Jesú! horsi' eg hér, hjartans augunum mínum, audlegdar gædin líkamlig, láctú þó aldrei villa mig, frá krossins fadmi þínum.

13. Jónas sat undir einum lund, engra meina því kénndi, hádegis sólar hita stund, hann ei til skada brendi; Jesú kross-skugga skjólid hér, skýlir þó lángtum betur mér, fyrir Guds hefndar hendi.

14. Hvert eg sef, vaki, sit, edur stá, í sælu' og hættum nauda, krossi þínum eg held mig hjá, horfandi' á blód þitt rauda; lát mig einninn þá æfin þver, útaf sofna á fótum þér, svo qvídi' eg síst vid dauda.

## 38. Sálmur.

Lagid: Jesús, sem ad oss frelsadi.

Þeir sem ad Kristí krossi senn, komu og fram hjá gengu, hristu med

háðúng höfuðen, honum til brixlis fengu; heit-orð sín hefði hann haldið lítt, Herrans musteri' að brjóta, á þremur døgum annað nýtt, efna með bygging fljóta.

2. Tveir lugu svoddan fals-menn fyrst, fyrir Caiphas's dómi, af því hafði það útborist, eptir fjølmennis rómi, þessi þó hafi heyrt og sjeð, Herrans jarðteiknir fríðar, lýgin þeim betur gafst um geð, gengur svo enn til víðar.

3. Øldúngar landsins, fólkið flest, og flockur heiðinn stríðsmanna, Herrann vorn Jesúm hæddu mest, með Höfðíngjum Prestanna, søgðu: ef ertú Son Guðs kjær, sá þig með krapti stýður, kom þá hér, svo það sjáum vær, sjálfur af krossi niður.

4. Hann, sá eð øðrum hefir hér, hjálpað og læknað marga, megnar nú ecki' að sönnu sér, sjálfum úr neyð að bjarga; svoddan háðyrði, hróp og dár, hlaut þá Jesús að líða, stóð það yfir um stundir þrjár, stutt var andláts að bíða.

5. Þá fram hjá Kristí krossi nú, kalsandi held eg gánga, sem ecki' af hjartans ást og trú, elska hans pínu stránga, heilagleik sínum hrósa frí, við holdsins fýsn sig binda, síðan falla ervænting í, eða forherðíng synda.

6. Að þínum krossi, Kristi kjær! kém eg, sem einn framandi, gef þú mér leyfi' að gánga nær, geð mitt styrki þinn andi, svo eg hugleiði hvað til kom, háðúng, bríxl-orð og pínu, leiðstú, mann-gæðsku mildin fróm! móti andláti þínu.

7. Sál mín og líf þær sæmdir hlaut, sjálfs Guðs musteri' að heita, í skírninni' því eg þín að naut, það nam Guðs andi veita, síðan hefir það syndin mörg, sárlega gjört að brjóta, holds náttúran því elskar örg, athæfið heimsins ljóta.

8. Á þremur dögum þará mót, því hét eg mörgu sinni, með ydrun, trú og yfirbót, aptur það bætast kynni; æ! hvað veitir slíkt ervidt hér, efnin og dug vill þverra, bríxlið, sem til var búið mér, bar því Jesús minn Herra.

9. Í velgengninni' eg hrósa hátt, hraustleika trúarinnar, í mótlætinu' hún bilar

brádt, brest finn og stórann hennar, enginn fullkominn á mér sjest, ávextur dygda sætur, bar því fyrir mig bríxlid vest, blessadur Jesús mætur.

10. Hjálpa læst eg med heilnæm ráð, hinum, sem ílla breyta, sjálfs míns lýta þó síst sæ gád, svoddan má blindni heita; mér var þar stærsta mínkun ad, mátti hádyrdum qvída, burttók nú Jesús bolid þad, bríxlin því vildi' hann líða.

11. Jesú! í þínu andláte, yfir þig bríxlin dundu, ad svo í fridi end mín sé, á minni dauda-stundu; hádúng leidst þú af ollum einn, alla frá hádúng leystir, aldrei tavast sá nockurr neinn, er nafn þitt uppá treystir.

12. Nær sem hreckvísra hádúng ný, hjartad mitt sárt vill stánga, undir þinn kross eg feginn flý, fram-hjá skal eigi gánga, þar stend eg kyrr, þó kals og spé, qveiki mér heims óblída, uppá þig, Jesú! einn eg sje, allt vil eg med þér líða.

13. Fyrst þú varst hæddur, Herra! þá, harma-qvøl leidstú slíka, svo heidri þig nú hédan í frá, himnar og jordin

líka! allir Englar og öll heims-mind, undir þitt vald sig hnegi, og eg þar uppá aum mannkind, Amen af hjarta segi.

## 39. Sálmur.

Lagid: Einn Herra eg best ætti.

Annar ræninginn rædди, sem refsad þad sinn var, Herrann vorn Jesúm hæddi, hann gaf þetta andsvar: ef þar von er til nockur, ad þú Guds Sonur sért, hjálpa þér og svo ockur, úr þessum naudum bert.

2. En hinn þar uppá gegndi: ecki hrædist þú Gud! hverjum straffs heiptin hegndi, hún var rétt forþénud; vid megum vel medtaka, verka betalíng þann, en þessi' er alls án saka; eptir þad sagdi hann:

3. Hugsa þú til mín, Herra! þá heldur þú ríki þitt; ást Drottins ei nam þverra, andsvar lét heyra sitt: sannlega eg þér segi, (sú er huggunin vís), þú skalt á þessum degi, mér þjóna í Paradís.

6. Sjá hér fyrst straffid synda, sála mín! hriggilegt, forherdíng hjartans blinda, þó holdid qveljist frekt. Gefdú mér, Jesú gódi! eg gegni vel hirtíng þín, med trú og tára-flódi, og tjái þér brotin mín.

5. Ræníngjans ydrun eina, athugum líka med, hann gjerdi játníng hreina, hatadi íllverk skéd, því sagdi' hann væri ad vonum, verdlaunin ránglætis, ávítun veitti honum, sem vildi' ei gæta þess.

6. Hann trúdi': á himnaríki, hefdi vor Jesús rád, þó syndugra sýndist líki, svo treysti á hans nád, med blygdun og hreldum huga, Herrann sín minnast bad, ljúflega lét sér duga, loford ef fengi þad.

7. Hróp og hárreysti gjørdu, heidnir og Júdar þar, kríngum krossinn á jørdu, med kals, brixl og hádúngar; svaradi' ei Son Guds neinu, þó sjálfann þad snerti hann, en syndugs manns ordi einu, án dvalar gegna vann.

8. Sætt mér fyrir sjónum skartar, sæll Jesú! gædskan þín, þér geck heldur til hjarta, hans neyd enn sjálfs þíns pín; sama hefir þú sinni, vid syndug-

ar skêpnur hér, því aldrei elsku þinni, aptur, minn Herra! fer.

9. Illvirkinn hafdi unnid, ódáðaverkin stærst, gøtu glæpanna runnid, greidt fram í daudann nærst; en Jesús ecki vildi, á þad neitt minnast nú, svo var mikil hans mildi; mín sál! þad hugleid þú.

10. Enginn ervænta skyldi, þó ydrast hafi seint, sem er Guds Sonar mildi, sé annars hjartad hreint, því hverki vid stadi né stundir, stýlud er Drottins nád, allt fram andlátid undir, ofs býdst hans hjálpar-rád.

11. En þú skalt ecki treysta, óvissri dauda-stund, né Guds med glæpum freista, gjørandi þér í lund: nádar-tíminn sé næsta, nógur hendum fyrer; slíkt en hættusemd hærsta; henni Gud fordi mér!

12. Svo margt eg syndgad hefi, forgin mig sturlar nú, ydrun Guds nád mér gefi, glóandi von og trú. Herra Jesú hjartkjæri! hugsa þú til mín þá, dapur er daudinn nærri, og drag mig qvølum frá!

# 40. Sálmur.

Lagid: Skaparinn stjarna, Herra hreinn!

Uppá ræníngjans ord og bón, ansadi Guds hinn kjæri Son: þú skalt, sannlega segi' eg þér, sælu-vist hafa í dag med mér.

2. Sjádú med gætni, sál mín kjær! sem ydran hverju kraptad fær, uppá þad dæmid er hér rétt, ollum til lærdóms fyrisett.

3. Reidi Drottins þá uppegnd er, yfir ránglæti mannsins hér, ydranin blídkar aptur Gud, ei verdur syndin tilreiknud.

4. Þó komi hostug hefndin brád, hrein ydran jafnan finnur nád, midt í standandi straffi því, stillist Guds reidi uppá ný.

5. Samvitsku orma sárin vest, sem ydran jafnan grædir best, hugsvalar sál' og huggar ged, heilaga Engla gledur med.

6. Væn af ydrandi hjarta hír, hún er fyrir Gudi metin dýr, Herrann Jesús á hverri tíd, henni gaf jafnan andsvar blíd.

7. Sem Móises med sínum staf, sætt vatn dró fordum steini af, eins fær ydrandi andvarp heitt, út af Guds hjarta miskun leidt.

8. Játníng mín er sú, Jesú minn! jeg er, sem þessi ræninginn, já, engu betri fyrir augsýn þín, ef þú vilt reikna brotin mín.

9. Kém eg nú þínum krossi ad, kannast þú, Jesú minn! vid þad, syndanna þúngi þjakar mér, þreyttur eg nú ad mestu er.

10. Alnakinn þig á einu tré, út þínar hendur breidandi, sárin og blódid signad þitt, sjer nú og skodar hjartad mitt.

11. Þar vid huggar mín sála sig, svoddan allt leidstú fyrir mig, þíns hjarta-dreira heilög lind, hreinsar mig vel af allri synd.

12. Krossins burtnuminn qvölum frá, Kóngur ríkir þú himnum á; Herra! þegar mig hrellir pín, hugsadu' í þinni dýrd til mín.

13. Segdú hvern morgun svo vid mig, sæti Jesú! þess beid'eg þig: í dag þitt hold í heimi er, hjartad skal vera þó hjá mér.

14. Í dag (hvern morgun eg svo bið), aldrei lát mig þig skiljast við, hugur, sinni og hjartað mitt, hugsi og stundi' á ríkið þitt.

15. Eins þá kémur mín andláts-tíð, orðin lát mig þau heyra blíð: í dag (segðú) skal sálin þín, sannlega koma í dýrð til mín.

16. Herra minn! þú varst hulinn Guð, þá hæðni leiðst og krossins nauð, þó hafðir þú með hærstri dáð, á himnaríki vald og ráð.

17. Dauðanum mót mér djerfúng ný, daglega vex af orði því: í dag, þá líður ei lángt um það, leiðð verður önd í sælu stað.

18. O Jesú! séu orðin þín, andláts síðasta huggun mín, sál minni verði sælsan vís, með sjálfum þér í Paradís!

## 41. Sálmur.

Lagið: Af djúpri hrigð ákalla' eg þig.

Um land gjörvallt varð yfrið mirkt, allt nær frá sjöttu stundu, sólin

því ljóma sinn féck byrgt, senn til hinnar níundu: Gud minn, (Jesús svo hrópar hátt), hvar fyrir gleymdir þú mér brádt? svoddan, mín sál! vel mundu.

2. Enginn skal hugsa' ad Herrann þá, hafi med efa' og brædi, hrópad þann-inn og horfid frá, heilagri þolinmædi, syndanna krapt og qvalanna stærd, kynn-ir hann oss, svo verdi hrærd, hjørtun frá hreckja ædi.

3. Sólin blygdast ad skína skjær, þá Skapara sinn sá lída, hún hafdi ei skuld, (þad vitum vær), þess voda mein-sins strída; o! hvad skyldi þá skammast sín, sképnan, sem Drottni jók þá pín, med hrigd og hjartans qvída.

4. Aví! hvad má eg aumur þræll, ángradur nidur drjúpa, þá eg heyri, minn Herra sæll! sú harma bylgjan djúpa, geck yfir þig, þá galdstú mín; gjarnan vil eg ad fótum þín, feginn fram flat-ur krjúpa.

5. Í ytstu mirkrum um eilífd er, óp og gnýstran tannanna, hefndar-straff þad var maklegt mér, fyrir margfjøldann glæp-

anna; frá því, Jesú! þú frelstir mig, frekt gengu mirkrin yfir þig, svo skyldi' eg þá qvøl ei kanna.

6. Í svørtu mirkri það sama sinn, sorgar-raust létstú hljóma, þá hrópaðir þú mig, Herra, inn, í himneskann dýrðar-ljóma; í því ljósi um eilíf ár, út-hrópa skal mín raustin klár, lof þinna leyndardóma.

7. Synda, sorga og mótgángs með, mirkrin svo opt mig pína, að gløggt fær ecki sálin sjeð, sælu geislana þína; Jesú, réttlætis sólin sæt, syrgjandi eg það fyrir þér græt, harma-raust heyr þú mína!

8. Guð minn! segi eg gjarnan hér, geyst þó mig sorgin mæði, Jesú! eg læri' nú það af þér, það skulu mín úr-ræði, gjørvøll þá heimsins gleðin dvín, Guð minn! eg hrópa vil til þín: Guð minn allt bøl mitt græði!

9. Yfirgefinn qvað Son Guðs sig, þá særði' hann qvølin megna; yfirgefur því aldrei mig, eilífur Guð hans vegna, fyrir þá Herrans hrigðar-raust, hærstur Drottinn mun efalaust, grátbeiðni minni gegna.

10. Þá sólar-birtunni' eg sviptur er, sjón og heyrn tekur að dvína, raust og málfæri minkar mér, mirkur dauðans sig sýna, í minni þér, Drottinn sæll! þá sé, Sonar þíns hróp á krossins tré, leið sál til lífsins mína!

## 42. Sálmur.

Lagið: Eins og sitt barn, faðir ástargjarn.

Í sárri neyð, sem Jesús leið, sagði hann glöggt: mig þyrstir. Svo Ritníng hrein, í hverri grein, uppfylltist ein; um það mig ræða lystir.

2. Strax hljóp einn eð, þá heyrði það, hitta njarðarvött kunni, lét á reir-prik, drap í edik, með íllt tilvik, og bar Jesú að munni.

3. Forundrast má, mín sál! þar á, maðurinn hverr þess gætir, að hann sem ráð, hefir með dáð, á himni' og láð, hörmúng þvílíkri mætir.

4. Hann sá sem vín, af valdi sín, úr vatni sætt tilreiddi, með sorgar-stick, féck súrt edik, fyrir svala-drck, þá sárt hann þorstinn neyddi.

5. Því mundi' ei hér, til hlífdar sér, Herrann edikid líka, sem vín ágætt, gjøra vel sætt, fyrst gat þad bætt, hans Guds-dóms maktin ríka?

6. Komin var tíd, krapta-verk fríd, Kristur ei gjøra skyldi, hin stundin þá, fyrir hendi lá, hrigd, qvøl og þrá, Herr-ann vor lída vildi.

7. Krapta-verk hrein, kénndu þá grein, ad Kristur Guds Son væri, en qvølin hans, sýndi til sanns, ad syndugs manns, sektir og gjøld hann bæri.

8. Guds einka Son, gjerdist vor þjón, þá grædd' hann mein og qvída, offur-lamb best, hann ordinn sjest, fyrir utan brest, í því hann qvøl nam lída.

9. Af strídi því, sem stód hann í, styrkleiki manns náttúru, þreytast mjøg vatn, því þyrsti hann, þádi vøkvann, þó af ediki súru.

10. J annann stad, merk, madur! þad, og minnst þess hverju sinni: ad Herrann Krist, hefir mest þyrst, af ást og lyst, eptir sáluhjálp þinni.

11. O madur! nú, þenk þar um þú, þinn hugur blygdast skyldi: Gud þyrsti

hér, ad hjálpa þér, en hjartad þitt er, óþyrst eptir hans mildi.

12. Heyr þú, sál mín! talar til þín, trygda brúdguminn gódi: þyrstur eg er, í hrigdum hér, svo hjálpi' eg þér, úr hættu qvalanna flódi.

13. Ver honum síst, þess bid eg víst, beiskann dryck hræsnis anda', ordin hans hrein, á alla grein, fyrir utan mein, óbrjálud láttú standa.

14. Uppá ord þín, svarar sál mín, sorgin þó málid heptir: þyrst er eg nú, og þad veitstú, þýdi Jesú! þinni miskunsemd eptir.

15. Ecki' er hjá mér, þad þyrstum þér; þori' eg nú fram ad bjóda, nema fá tár, trú-veik, þó klár, sem til þín stár, tak þad og vird til góda.

16. Lof, dýrd sé þér, lausn féckstú mér, og létst þig svo miklu kosta, hjartad á ný, huggast af því, ad eg er frí, frá eilífum qvala-þorsta.

## 43. Sálmur.

Lagid: Allfagurt ljós oss birtist brátt.

Eptir ad þetta allt var skéd, edikid Jesús smacka réd, þrótt og lífs-

krapta þverra sann, það er fullkomnað sagði hann.

2. Orð þíns Herra með ást og trú, athuga skyldir, sál mín! þú, ef þeirra grundvöll sannann sjer, sæta huggun þau gefa þér.

3. Fyrst skaltú vita' að Guð útgaf, greinilegt lögmál himnum af, hann vill að skuli heimi í, hverr maður lifa eptir því.

4. Algjert réttlæti ljóst og leynt, líkama, sál og geðið hreint, syndalaus orð og atvik með, af oss lögmálið heimta réð.

5. Hugurinn vor og hjartað sé, í hreinni elsku rétt brennande, fyrir utan hræsni, bræði' og bann, bæði við Guð og náúngann.

6. Hverr þetta gæti haldið rétt, honum var lífið fyrisett, en ef í einu út af brá, eilíf fordæmíng við því lá.

7. Enginn maður frá Adam fyrst, eptir þann dag hann syndgaðist, fullnægju gat því gjört til sanns, gengur það lángt yfir eðli manns.

8. Obærileg var allra sekt, eptir því Drottinn geck svo frekt, annaðhvert

skyldi uppfyllt þad, eda mannkynid fortapad.

9. Jesús eymd vora alla sá, ofan kom til vor jördu á, hædum himna upprunninn af, undir legmálid sig hann gaf.

10. Viljuglega í vorn stad geck, var sú framqvæmdin Gudi þeck, fødurnum hlýdni fyrir oss galdt, fullkomnadi svo lagmál allt.

11. En svo ad synda sektin skéd, sannlega yrdi forlíkt med, og bølvan lagmáls burtu mád, beiska qvøl leid og daudans hád.

12. Þá hann nú hafdi allt uppfyllt, sem oss var sjálfum ad gjøra skyldt, og bæta all vor brotin frí, berlega vildi hann lýsa því.

13. Þess vegna Herrann hrópa nam, hartnær á krossi stíginn fram, ad oss í voru andláte, øll hans verdskuldan huggun sé.

14. Svoddan adgæt þú, sála mín! Sonur Guds hrópar nú til þín, hvad þér til frelsis þéna kann: Þad er fullkomnad! segir hann.

15. Fullkomnad lögmál fyrir þig er, fullkomnad gjald til lausnar þér, fullkomnad allt það fyrir er spád, fullkomna skalt þú eignast nád.

16. Herra Jesú! eg þacka þér, þvílíka huggun gafstú mér, ófullkomleika allann minn, umbæti Guddóms kraptur þinn.

17. Hjálpa þú mér svo hjartad mitt, hugsi jafnan um dæmid þitt, og haldist hér í heimi nú, vid hreina samvitsku' og rétta trú.

18. Uppá þessi þín ordin traust, ó-hræddur dey eg qvídalaust, því sú frelsis fullkomnan þín, forlíkad hefir brotin mín.

## 44. Sálmur.

Lagid: Herra Gud í himnaríki.

Hrópadi Jesús hátt í stad, holds megn og kraptur dvínar: eg fel minn anda, Frelsarinn qvad, Fadir, í hendur þínar.

2. Þú, kristinn madur! þenk uppá, þíns Herra beiskann dauda, ad ordum

hans og einninn gá, eru þau lækníng nauða.

3. Jesús haldinn í hærstri qvøl, hladinn med eymdir allar, dapurt þá ædgéck daudans bøl, Drottinn sinn Fødur kallar.

4. Herrann vill kénna þar med þér, þín ef mann-raunir freista, gódlyndur Fadir Gud þinn er, gjorir þú honum ad treysta.

5. Fyrir Jesúm þú fullvel mátt, fødur þinn Drottinn kalla, en þó þig krossinn þvíngi þrátt, þad mýkir hørmúng alla.

6. Eins og fadirinn aumkar sig, yfir sitt barnid sjúka, svo vill Gud einninn annast þig, og ad þér í miskun hjúkra.

7. Einninn sýna þér ord hans klár, ódaudleik sálarinnar, þó kroppurinn verdi kaldur nár, krenkist ei lífid hennar.

8. Hvar hún finnur sinn hvíldar-stad, Herrann sýnir þér líka, hønd Guds þíns Fødurs heitir þad; hugsa um rædu slíka.

9. Viljir þú eptir endad líf, egi þín sál þar heima, undir hønd Drottins hér þá blíf, hans bodord skaltú geyma.

10. Láttú Guds hønd þig leida hér, lífs-reglu haldt þá bestu, blessad ord hans sem bodast þér, í brjósti' og hjarta festu.

11. Hrind þú ei frá þér Herrans hønd, hún þó þig typta vildi, legg heldur bædi líf og ønd, ljúflega' á Drottins mildi.

12. Hér þegar mannleg hjálpin dvín, holdid þó qveini, og sýti, uppá hónd Drottins augun þín, ætíd í trúnni líti.

13. Ad morgni' og qvøldi minnst þess vel, máls upptekt láttú þína: af hjarta' eg þér á hendur fel, Herra Gud! sálu mína.

14. Svo máttú vera viss uppá, vilji þér daudinn granda, sála þín mætir miskun þá, millum Guds Fødurs handa.

15. Hún finnur ekkért hrigdar-stríd, hørmúng né mædu neina, í fridi skodar ætíd blíd, ásjónu Drottins hreina.

16. Eptirtekt mér þad einninn jók, er eg þess gæta kunni: andláts bæn sína sjálfur tók, Son Guds af Davíds munni.

17. Bæn þína aldrei bygdú fast, á brjóst-vit náttúru þinnar, í Guds ordi skal hún grundvallast, þad gefur styrk trúarinnar.

18. Vér vitum ei hvers bidja ber, blindleikinn holds því veldur, Guds ord sýnir þann sannleik þér, sall er sá þar vid heldur.

19. Vertú, Gud Fadir! fadir minn, í Frelsarans Jesú nafni, hend þín leidi mig út og inn, svo allri synd eg hafni.

20. Hendin þín, Drottinn! hlífi mér, þá heims eg adstod missi, en nær sem þú mig hyrtir hér, hend þína' eg gladur kyssi.

21. Daudans stríd af þín heilog hend, hjálpi mér vel ad þreja, medtak þá, Fadir! mína önd, mun eg svo gladur deya.

22. Minn Jesú! andláts ordid þitt, í mínu hjarta' eg geymi, sé þad og líka sídast mitt, þá sofna' eg burt úr heimi.

## 45. Sálmur.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Þá Frelsarinn í fedurs hend, fól nú blessadur sína önd, nidur sitt höfud hneigdi fyrst, Herrann í því hann sáladist. Drottinn vor þanninn dó á tré, dásemd kunni ei meiri ské.

2. Sancti Páll segir í sannri raun, syndarinnar sé daudinn laun, bana-spjót hans eru brotin ljót, bodordum Drottins gjerd á mót, sá skal deyja, sem syndgar hér, svoddan úrskurdur réttur er.

3. En þad hér heima átti síst, af því Jesús er saklaus víst, af helgum Anda' med hreinum sid, hann var gétinn í meyjar-qvid, Guds Fodurs veru fegurst mind, frjáls lifdi' og dó af allri synd.

4. Hverki ressíng né heljar bad, hafdi nú Jesús forskuldad, hvad kom þá til ad Herrann leid, harda pínu og beiskann deyd? eda hvar fyrir hyrtist hann, hegníngar til sem aldrei vann?

5 Guds Andi þar á gjörir skil, greinir þvílíka orsök til; vegna misgjörda vorra hér, vissulega hann særdur er, því Drottinn lagdi svo fyrir sann, syndirnar vorar uppá hann.

6. Sjá hér, mín sál! fyrir syndir þín, Sonur Guds lídur qvel og pín, hann dó fyrir þig, sem daudans bad, dárlega hafdir forskuldad, hann lét sitt líf svo lifdir þú, lífs eilífs von því áttu nú.

7. A mig var fallin þýngsta praut, þvíad eg Drottins lögmál braut, samvitsku særdi synda gráð, svo fékk daudinn sterk yfir-ráð, til fordæmíngar mér fjöturin hans, fastlega héldu víst til sanns.

8. Lögmál safnadi sektum mér, sektinni daudinn eptir fer, daudinn til dómsins dregur snar, dómurinn straffid úrskurdar, straffid um eilífd aldrei dvín, eilíf því var hin þýngsta pín.

9. Lögmálid hér sig forgreip fyrst, feldi það dóm yfir Herrann Krist, það baud: ad sá bölvadur sé, sem bana lídur á einu tré, djarflega' eptir því daudinn geck, Drottinn frá lífi skilid féck.

10. Sekt þá, sem lögmál setti mér, sjálfur borgadi Jesús hér, það misti sína makt í því, mig verdur nú ad láta frí, daudans broddur var brotinn þá, burt hans fángelsi slapp eg frá.

11. Eilífur daudi deyddur er, daudi Jesú það vinnur hér, dýrt metur Drottinn dauda minn, daudi! hvar er nú broddur þinn? daudinn til lífs nú stutt er stig, stórlega daudinn batar mig.

12. Daudinn því orkar einn til sanns, útslokna blýtur lífid manns, holdid legst í sinn hvíldar-stad, hans makt nær ecki lengra' enn þad, sálin af øllu fári frí, flutt verdur himna sælu í.

13. Í þínum dauda, ó Jesú! er mín lífgjøf og huggun trú, dásemdar krapt-ur dauda þíns, dreifist nú inn til hjarta míns, uppá þad synd og íllskan þver, út af deyji í brjósti mér.

14. Þú hneigdir þínu høfdi ljóst, Herra! Þegar á krossi dóst, med því bendtir þú mér þad sinn, ad minnast jafnan á dauda þinn; eins þá eg dey, skulu aug-un mín, upp líta, Drottinn sæll! til þín.

15. Fyrir þann deyd, sem þoldir þú, þig bid eg, Jesú! um þad nú, ad gefi mér þín gædskan blíd, góda kristins manns dauda tíd, hold mitt lát hvílast hægt med frid, hend þín sálunni taki vid!

## 46. Sálmur.

Lagid: Þá linnir þessi líkhams vist.

Þegar Kristur á krosins tré, kann-adi daudann stríta, teikn og stór-

merki mestu ske, mælir svo Ritníng frída, musteris tjaldid mjög umvendt, í midju vard ad rysna í tvennt, brist-ist jørd harla vída.

2. Sundur klofnudu bjørgin blá, byrgd leidin opnast fóru, líkhamir daudra lifna þá, lít hér þau undur-in stóru, eptir Lausnarans upprisu, inní borgina vitjudu, af sumum þar sjenir vóru.

3. Hvad hér historían hermir rétt, hygg ad því, sál mín mæta! þér til lærdóms er þad framsett, þess áttu vel ad gæta, jørdin skalf þegar Jesús dó, jafnvel þeir herdu klettar þó, sýndu medaumkun sæta.

4. Steini hardara' er hjartad þad, sem heyrir um Jesú pínu, gefur sig þar þó ecki ad, ann meir gjálífi sínu; kann nockud svoddan kaldt hugskot, Kristí dauda ad girnast not? Gud stjórni gedi mínu!

5. Þad má undra hin þúnga jørd, þreydi ei kyrru' ad halda, blágrýtis einn-in bjørgin herd, bresti lidu margfalda, holdid þó ei né hjartad manns, hrigg-

ist vid pínu Skaparans, sem hans þó hlaut ad gjalda.

6. Fortjaldid sýnir sannleik hann, sundur þá rysna nádi, aftakast skyldi øll fyrir sann, eptir Guds settu rádi, Gydínga-kynsins kóngleg stjórn, Kénnivaldid og legmáls fórn, sem Ritníng sjálf um spádi.

7. Hindran réd ellum ætíd stór, inn í Guds ríki banna, því veldur synda-sektin vor, og saurugleikinn verkanna; en fyrir Jesú dýrstann deyd, Drottinn tilbjó oss opna leid, hédan upp til himnanna.

8. Hér í kristninnar helgidóm, høfum vér frelsi' ad gánga, þar bodast nád og blessan fróm, burt er þá sorgin stránga, sálin vor hefir búna braut, beint í Abrahams gledi-skaut, eptir heims hørmúng lánga.

9. Frelsarans dauda einninn ad, endud líkin hér njóta, gudlegur kraptur gjørdi þad, grafirnar opnast hljóta, því Drottins Jesú daudi' á kross, daudann sigradi fyrir oss, abl hans og brodd nam brjóta.

10. Merk, ad úr jørdu mátti' ei neinn, madur frá dauda standa, fyrr enn tjedi vor Herra hreinn, hold sitt aptur lifanda, fyrstur allra því uppreis hann, af eginn

krapti', og þar med fann, endurlausn oss til handa.

11. Höfdínginn krossi Herrans hjá, hér med allt fólkid líka, jafnsnart, sem þetta jardteikn sjá, játníng þeir gjördu slíka: sannlega hefir saklaus hann, og Son Guds verid þessi mann, brjóst slá og brádt heim víkja.

12. Fólkid, sem harda krossins qval, Kristi fyrr óska nádi, fann nú hid þýngsta' í brjósti böl, beiskleg samvitskan þjádi; of-hastarlegann úrskurd flý, ef þú vilt vera' af sorgum frí, hætt er rasanda rádi.

13. Daudi þinn, Jesú Drottinn! þá, dýrdlegann krapt útsendi, heidnum manni svo hér vid brá, hann þig Guds Son medkénndi. Eg bid gædskunnar gedid þitt, gef þú vidlisni hjartad mitt, ad svo frá íllu vendi!

## 47. Sálmur.

Lagid: O Jesú! elsku hreinn.

Kunníngjar Kristi þá, krossinum lángt í frá, stódu med þúngri þrá, þessa tilburdi sjá.

2. Var þar og vidstadt med, ad vísu margt qvennfólked, sár Jesú fengu sjed, sorgandi báru ged.

3. Af þessu, mín sál! þú sjer, sannlega hversu er, valt allt í heimi hér, haf slíkt í minni þér.

4. Dvínar og dregst í hlé, á dauda-stundunne, vinskapur, frændur, fé, fallvalt hygg eg þad sé.

5. Þó vildu vinirner, veita hjálp nockra þér, vorn þeirra ónýt er, enginn daudanum ver.

6. Lífsinu hjúkrar hond, þá herdir sóttargrend, hjálpa þó engin ond, upphugsud rádin vond.

7. Vinskap í synda sid, sála mín! þess eg bid, haldtú ei verold vid, viljir þú sofna' í frid.

8. Hreinann vinskap haldt þú, vid Herra þinn Jesúm nú, í hreinni hjartans trú, frá heimsins elsku þér snú.

9. 9. Hann einn má hjálpa þér, þá hjá-stod mannleg þver, heim þig á hondum sér, í himna sælu ber.

10. Þad hér í sannleik sjest, er Sonur Guds andadest, sorgin þá særdi mest, sem hann elskudu best.

11. Kristis bern eru kross-bern, við Kristum hlýðnis-gjörn, hann sýnir þeim hjálp og vörn, þó hörð sé sútar qvörn.

12. Þú skyldir þar að gá, þó þeir stæðu lángt frá, allir samhuga sjá, Son Guðs kross festann á.

13. Komið svo konur og menn, að krossinum Jesú senn, þó nauðin þreyngi þrenn, þar fæst nóg lækníngen.

14. Kom þú, sál kristin! hér, sem kross og mannraunir ber, settú fyrir sjónir þér, Son Guðs, sem píndur er.

15. Uppá hans heileg sár, horfi þín trúin klár, það mýkir trega' og tár, temprar allt sorgar-fár.

16. Sértú, syndugur mann! særður um hyggju-rann, horf þú beint uppá hann, sem hjálp þér á krossi fann.

17. Hverr, sem eyr-orminn leit, af Ísraels manna sveit, eitrið ei á þann beit, ell stilltist plágan heit.

18. Svo stór synd engin er, að megi granda þér, ef þú á Jesúm sjer, yðrandi' í trúnni hér.

19. Sje eg þig, sæll Jesú! svo sem álengdar nú, von mína' og veika trú, við bið eg hressir þú.

20. Þá eg sje sárin mín, særir mig hjartans pín, sárin þá sje eg þín, sorg øll og qvídi dvín.

21. Lát mig, ó Jesú kjær! aldrei svo vera þér fjær, ad sjái' eg ei sár þín skjær, þá sorg og eymd mig slær.

22. Veit mér eg verdi' og sé, vin þinn og kunnínge, þó hversi heilsa og fé, hjálp mun þá nóg í tje.

23. Eg fel í sérhvert sinn, sál og líkama minn, í vald og vinskap þinn, vernd og skjól þar eg finn.

## 48. Sálmur.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Ad qvøldi Júdar frá eg færi, til fundar senn vid Pílatum, og þess beiddu' ad ecki væri, øndud lík á krossinum, því hátídin var harla nærri; þér svo Ritníng greinir um.

2. Strídsmønnum hann baud ad brjóta, beinin þeirra' og svo var gert, helsar stund þeir hrepptu skjóta, hinir tveir, sem greini' eg bert, en Jesúm

létu síns lífláts njóta, limina hans ei fengu snert.

3. Stríðsmann einn með heiptarhóti, hardlyndur geck krossi að, Lausnarans síðu lagdi spjóti, lagid nam í hjarta stað, blóð og vatn þar frá eg út fljóti, fyrr var áður spáð um það.

4. Umhugað er einum Drottni, allra sinna barna lík, í jörðu hér þótt holdið rotni, huggun traust mig gledur slík, hann vill ei týnist bein né brotni; blessuð sé sú elskan rík!

5. Guð Drottinn með gæðsku r.·ði, gjörði Adams síðu af, fríða qvinnu fy.st á láði, fast hann þó á meðan svaf, vaknaður þess að vísu gáði, og veglegt henni nafnið gaf.

6. Sofnaður á sinni síðu, sárið Drottinn Jesús bar, svo að af vatni' og blóði' hans blíðu, bygdist heilög kristnin þar, náði' hún edla nafni fríðu, nær til himna stigin var.

7. Skoða þú hvernig skírnin hreina, skiljast nú með réttu á, að vísu jafnan vatnið eina, vor líkhamleg augun sjá, en trúar sjónin, svo má greina, Sonar Guðs blóð þar lítur hjá.

8. Æ! hvad má eg sælann sanna, Sancti Thómás Postula þinn, þá sídu mátti' hann sár þitt kanna, sína hønd þar lagdi inn! þú munt ei mér þjádum banna, þad ad skoda, Jesú minn!

9. Allar Jesú ædar stódu, opnadar í qvølinne, dreyra lækir dundu' og flódu, um Drottins líf á krossins tré, nægd af lausnar gjaldi gódu, Guds Son fyrir mig lét í tje.

10. En svo eg skyldi sjá og játa, sanna elsku Drottins míns, vildi hann ecki læst- ar láta, lífs ædarnar hjarta síns, því er, sál mín! mikil úr máta, miskunsemi Lausnara þíns.

11. Opnar dyr á arkar sídu, inn um gengu sképnurnar, sem sjálfur Drottinn baud med blídu, bjargast skyldu inni þar, fyrir vatnsins flódi strídu, frelsi' og líf þeim gefid var.

12. Lífsins dyr á sídu sinni, setur Je- sús opnar hér, svo ángrud sála adstod finni, ell þá mannleg hjálpin þver, hverr, sem hefir þar athvarf inni, frá eilífum dauda leystur er.

13. Nói um sinn arkar-glugga, upp til himins litið fékk, haldinn dymmum hrigðar-skugga, hátt þá vatnsins flóðið gekk, svo hann mætti' um síðir hugga, sólar-ljóma birtan þekk.

14. Gegnum Jesú helgast hjarta, í himininn upp eg líta má, Guðs míns ástar birtu bjarta, bæði sæ eg að reyna' og sjá, hrigðar-mirkrið sorgar svarta, sálu minni hverfur þá.

15. Guðs var máttug mildin prúða, Móises þá steinin sló, út til allra Ísraels búða, ágætt svala-vatnið dró, hresti þyrsta, þjáða' og lúða, þeim svo nýja krapta bjó.

16. Þá sjálfur Guð á Sonarins hjarta, sínum reiði-sprota slær, um heimsins áttar alla parta, útrann svala-lindin skjær, sálin við þann brunninn bjarta, blessun og nýja krapta fær.

17. Við þennann brunninn þyrstur dvel eg, þar mun eg nýa krapta fá, í þessi inn mig fylsnin fel eg, sargar engin sorg mér þá, sælann mig fyrir trúna tel eg, hún tekur svo Drottins benjum á.

18. Hjartad mitt er, Herrann gódi! hriggilega saurgad mjøg, hvo þú það med þínu blódi, þess af. audmýkt beidi eg, vinni mér bót á mædu' og módi, miskunsemin guddómleg.

19. Hjartans innstu ædar mínar, elski, lofi, prísi þig, en hjarta = blód og benjar þínar, blessi, hressi, grædi mig; hjartans þýdar þackir sínar, þér sé gædskan eilíflig!

## 49. Sálmur.

Lagid: Nú látum oss líkamann grafa.

Jóseph af Arimathía, edalborinn Rádherra sá, Gydínga svik vid Son Guds skéd, samþyckt hafdi þeim aldrei med.

2 Hann var Lausnarans lærisveinn, líferniß frómur dygda hreinn, Gydínga hræddist heiptar raun, héldt sig ad Kristi þó á laun.

3. Þessi um qvøldid þángad geck, þá af Pílató leyfid féck, ad mætti Jesúm andadann, ofan taka og jarda hann.

4. Jóseph tók strax af krossi Krist, keypti þó nýjann lín-dúk fyrst, Nicodemus kom þegar þar, þángað kostuleg smyrslin bar.

5. Jóseph gróf eina átti þar, útklöppuð sú í steini var, í aldingardi þar allskammt frá, enginn fyrr dauður í henni lá.

6. Dýrdlega smurdu Drottins lík, dæmin má ønnur finna slík, byrgdu med steini búna gróf, burt gengu strax fyrir utan tóf.

7. María Jacobs módir ein, Magdalena á sømu grein, Salóme einnin sat þar hjá, sáu vors Herra greftrun á.

8. Í þeirra selskap, sál mín blíd! settú þig nidur litla tíd, greftrun þíns Herra gæt vel ad, gagnlaust mun ecki verda það.

9. Vid Jesú greftrun jeg fæ sjed, Jóseph og Nicódemus med; ádur þordu þeir ecki Krist, opinberlega ad játa fyrst.

10. Nú fá þeir nærsta nýjann dug, nóga djerfúng og styrkann hug, augljóslega svo allir sjá, elsku, sem Drottni hefdu á.

11. Rjúkandi trúar þerinn hér, helgur Andi svo vidnærer, ljómandi þar af ljósid skín, lífgar hann allt med krapti sín.

12. Huggist þeir nú, sem hjartad deigt, hafa og trúar megnid veikt, bidji um styrk og stedugt ged, stundi og læri Guds ord med.

13. Veit þú, Jesú! ad veik trú mín, vaxi daglega' og elskan þín, eblist svo med mér innvortes, ytra gód sjáist merki þess!

14. Annad þú líka merkja mátt, mislíkar Drottni' á engann hátt, þó heidurleg sé hér á jørd, holdi útvaldra líkser gjørd.

15. Mætast Guds Anda musteri, manns var rétt-kristins líkami, því má honum veitast virdíng rétt, vel med stillíng og hófi sett.

16. Erfis-dryckjur og ónýtt prjál, ecki á skyldt vid þetta mál, Heidíngja skickun heimskuleg, hæfir Kristnum á engann veg.

17. Ætíd þá sjer þú sálad hold, sett vera nidur í jardar mold, hriggur þú vert og hugsa brádt, hér vid þú líka skilja átt.

18. Lagt þegar nidur líkid sjer, láttú sem daudinn hvíli' ad þér, lángt máske ecki lídi' um það, legg eg þig eins í slíkann stad.

19. Gódi Jesú! fyrir greftrun þín, gef þú sídasta útfer mín, verdi farsæl og fridsom mér, frelsud sál nái dýrd hjá þér.

20. Í þridja máta huggun hrein, hér veitist mér á alla grein: Guds Sonar hold því greftrad var, greftrun minni til virdingar.

21. Helgum Guds bornum Herrans hold, helgadi bædi jord og mold; grefin því er vort svefn-hús sætt, svo má ei granda reidin hætt.

22. Svo ad lifa, eg sofni hægt, svo ad deyja, ad qvol sé bægt, svo ad greftrast, sem Guds born hér, gefdú sætasti Jesú! mér.

## 50. Sálmur.

Lagid: Eins og sitt barn, fadir ástargjarn.

Oldúngar Júda annars dags, inn til Pilatus's gengu strax, sógdu:

Herra! vér höfum mest, í huga fest, hvad sá falsari herma létst.

2. Eptir þrjá daga (ódt fyrir sann), uppríſa mun eg sagdi hann; vid slíku' er best ad leita lags, lát geyma strax, þessa gröf inntil þridja dags.

3. Máské líkid med leyndum hljódt, lærisveinar hans taki' um nótt, og lýdnum segi þad lyga skin; þá lýtst ei kyn, þó verdi sú villan verri' enn hin.

4. Pílatus víst þeim vardhald féck, vaktin strax út af stadnum geck, gröfinni blifu Herrans hjá, og svo til sjá, settu innsigli steininn á.

5. Gydínga herd var heiptin beisk, hjartans blindleiki' og villan treysk, þeim kunni' ei nægjast qvöl og bann, sem Kristur fann, líka daudann þeir lastu hann.

6. Fordast þú svoddan síblsku grein, framlidins manns ad lasta bein, sá daudi' hefir sinn dóm med sér, hverr helst hann er, sem best haf gát á sjálfum þér.

7. Gydíngar vildu veita rírd, vors Lausnara uppríſu dýrd, en Drottins vald og visdóms rád, þess vel féck gád, verk sitt fram qvæmdi víst med dád.

8. Hefdi ei vaktin geymt og gæt, grafarinnar, sem nú var rædt, orsök var meiri' ad efast þá, hvert upp réd stá, Drottinn vor Jesús daudum frá.

9. En þeir sjálfir, og er þad víst, upprisu Drottins hafa lýst, þó Kénnimenn Júda' af kaldri stygd, qvaldir af blygd, keyptu þá til ad bera lygd.

10. Öll svikrád manna' og atvik íll, ónýtir Drottinn þá hann vill, hans rád um eilífd stödugt stár, og stjórnin klár, slægdin dramblára slétt förgár.

11. Hvíli' eg nú sídast huga minn, Herra Jesú! vid legstad þinn, nær sem eg æti' ad greftrun þín, gledst sála mín, skélfing og ótti daudans dvín.

12. Sekrir mínar og syndir barst, sjálfur þegar þú píndur varst, uppá þad dóstú, Drottinn kjær! svo qvittnudust þær, hjartad því nýjann fegnud fær.

13. Þú grófst þær nidur í gröf med þér, gafst þitt réttlæti aptur mér, í hafsins djúp, sem skrifad finnst, þeim flengdir innst, um eilífd verdur ei á þær minnst.

14. Svo er nú syndin innsiglud nderaudi sála qvitt vid Gud, eilíft réttlæti

uppbyrjad, í annann stad, trúud manneskja þyggur þad.

15. Daudi þinn, Jesú! deydi þér, dárlega holdsins girnd í mér, grafin þín hylji glæpi mín, fyrir Guds augsýn, ebli mér styrk uppri̇san þín.

16. Stein-þró míns hjarta' úthoggvin sjest, heilagur Andi vann þad best, líndúk trúar eg læt í tje, minn Lausnare! ylmandi smyrsl ydranin sé.

17. Svo finni' eg hæga hvíld í þér, hvíl þú, Jesú! í brjósti mér, innsigli' heilagur Andi nú, med ást og trú, hjartad mitt, svo þar hvílist þú.

18. Dýrd, vald, virdíng og vegsemd hæst, vitska, makt, speki' og lofgjörd stærst, sé þér, ó Jesú, Herra hár! og heidur klár, Amen! Amen! um eilíf ár!

---

---

# Prír adrir
# Pislar-Sálmar,
qvednir af ødrum.

---

## I.

Lagid: Sæti Jesú! sjá oss hér.

Daudans þúngu kraminn qvøl, á krossi hángir Jesús blídur. Frelsarinn, svo brædra bøl, bætti þjakast písla hrídum. Ei-líf gædskan út hann gefur, ansa qveinstaf Sonar tefur.

2. Æ! hans hjarta sáru sorg! sérhvers vinar huggun sneyddur, leid hann fyrir' allra ørg, afbrot, smádur vard og deyddur. Harma skál hann hlaut afdrecka, hann svo fengi' oss Gudi þecka.

3. Hverr fær qvøl íhugad þá, svo hjarta vikna þess ei mætti, og þó lída sekann sjá, synda þúngu ressíng ætti; en, hár lídur hei-lagleiki; hjartad klöckni, raustin veikist!

4. Hann leid fyrir heimsins synd, hád-úng, undir, bønd, qvalrædi. Hann, sann-nefndur lífsins lind, létst á tré vid daudans mædi. Fús hann dó og fól sinn anda, Fød-urs, hlýdinn, geymslu handa.

5 Gódi Jesú! gef ad mér, gleymist s'st sú elsfan megna, er saklausum þrýsti þér, þetta' ad lída minna vegna! minníng krossins qvalar þinnar, kostnad votti lausnar minna!

6. Gef eg mína gráti synd, gef eg medur varúd fagni, fridi og sæld; þín forgar-mind, sí-áminni best hvad gagni! eg vard keyptur; æru' og sóma, allt skal mannkyn Jesú róma!

7. Virdstú' af nád mér lídsemd ljá, ad líkjast þér og fylgja hradur, þér, sem létst mig lísi ná, lifa trúr og deya gladur! hátt þig prísa' um heiminn vídann, heidra nær eg dey og sídan!

8. Þad, Frelsari! vonar víst, vonar æ þinn endurleysti. Þú óvirdir veika síst, von, sem stydja þér eg treysti; þegar fjorí dauda dvínar, Drottinn! medtak sálu mína!

## II.

Lagid: Adams barn! synd þín svo var stór.

Réttláti Gud! rannsaka mig, reyn hjarta mitt, eg kém fyrir þig; sjá! hvert eg heils er hugar, þá hugsa' um þína hjartans qvel, heitustu ást og písla böl, sút mína sálu bugar; Herra! þín píst mín heilsa sé! hvílík mistunar stórmerke, virdtist þú vereld sýna! hvenær hef' eg.

nóg hugleidt þad? hvenær best, sem gat vegsamad, af allri sál elsku þína?

2. Fridar-höfdíngi, hetja, rád, hins Hæsta kraptur, af Guds nád, herklæddist holdi' og blódi; heims synda-fórn svo ordinn ert, á sál flecklausri lídur snert, af eilífra eymda flódi; þinn vinur, sá þig sveik, er nær, sorg og ángist þitt hjarta slær, tekst upp Guds reidi tími, þér hugfellst, píst þig helvítisk skér: hjartans Fadir! ef mögulegt er, bikar sá burtu rými.

3. Sárheitt blód verdur sveiti þinn, þú sár-þjakast og máttfarinn, til jardar þér fletum fleygir; þú, Son hins Hæsta! bljúgur berst, þín bæn af ofraun þá þú skérst, ítrekud heyrist eigi. Af Gudi' í strídi styrktur þú, til straffs endalausfannstú nú; eilífdar ógn þig hrædir, sekt manna hlódst þig sjálfur á, í syndugra hendur gafst þig þá, gudlegu med þolgædi.

4. Þú, Guds réttláti' og sanni Son! sjálfur barst illvirkjanna laun, saklaus og sannheilagur, svo var þad fyrri fyrispád, framkom nú Drottins hjálpar-rád, vor fridar- og frelsis-dagur! íllþýdid þyrsti

í þitt blóð, offsann þín guddóms dygd afstóð, svo frelsast sálir kynnu; jeg þinn mordínga játa mig, Jesú! því allra synd á þig, hlóð Gud, svo frid vér finnum.

5. Allt til þræls mindar audvirdtist, en guddóms dygda-skarti lýst, æ er þitt ástar-hjarta; þolir svo hatur, háð og smán, hörmúngum, eymdum fullur, rán, mótst ecki mind Guds bjarta; þig, sem Gud hét oss, sáum vér, samt eckért er oss lysti' á þér, ei mind né fegurd frída, fyrir þér, ó Gud! athvarf mitt! andlit þeir jafnvel byrgja sitt, sáttmáls bern sjálf þig nída.

6. Ofstur það, sem Guts eilíft ráð, ályktad hafdi, hvert hans náð, hlód med harmqvælum vorum, fyrir misgjörðir fólksins þíns, fyrir sekt brotlegs mannakyns, qvalrædum kraminn sárum; í saklevsi þínu þegjande, þreytir þú veg ad krossins tré, sem lamb þad sláturs bídur; fús, líkt sem hetja hugprúdust, hels neyd, sem oss var maklegust, af ást til vor aumra lídur.

7. Eg mátti telja mín öll bein, mínar hendur þeir hafa med flein, og

fætur gegnum grafið; feitir umkríngdu
urar mig; ómildra hópur gladdi sig,
sína vild sjed að hafi; eg hrópa, en
mín hjálp er fjær, þeir hæða mig, sé
hann Guði kjær, hann klagi, hjálp
mun kanna! maðkur eg, ecki maður
er nú, mig í dauðans dupt leggur
þú, spott lýðsins, spé mannanna.

8. Bráð qvalaranna eg orðinn er,
eg hrópa, þú ei svarar mér; mig
yfirgefa allir; þjókuðum, sár þá þorst-
inn var, þeir rétta mér til svölunar,
beiskt edik blandað galli; sem vax mitt
hjarta' er sundursmelt, svo sem vatni
er mér úthellt, mín ángist er þeim
gleði: því yfirgafstú þjóninn þinn,
þrautmæddann, ó Guð minn! Guð
minn! af sálar súru erfiði.

9. Þú hnegir niður hefði þín, hróp-
ar: fullkomna borgun mín, þú deyr, jörð
dapur titrar; erfiði hef' eg aukið þér, ó
Drottinn! skélfdann hug eg ber, um píst
þína þenki bitra; hvað er eg, frelsi að
fékkstú mér? æ! fengi' eg heitast þackað
þér, sjá Drottinn! vægð mér sekum; þín
hjartans ást skal hvetja mig, að hlýðnast

þér, svo aldrei þig, særi með syndum frekum.

10. O! hvílík písla eilífra, eptirbið munu þeim tortýna, sem forsmá forþénun pína; þeim; sem ei stunda' í sannri trú, senda ástgjef að þeckjast nú, til þýngra dóms þíns er pína; synda-þjónum, er sífeldt þig, með syndum smána', en játa sig, forþénun þinni treysta; hverr o.d. þín smáir elskar síst, hverr ei þig elskar dæmist víst, qvöl þín hann kann ei hreysta.

11. Þú hefir heitið hjáslod mér, til helgunar svo eg í þér, ávext stadfastur færi; þín heileg píst mig huggar ein, hvenær sem synda banvænt mein, samvitsku hrædda særir; gjör mig brennandi' í bæn og trú, bind mig í elsku við þig nú, þitt dæmi gef eg geymi; veri þín qvel mín vörn í neyd, í velgengni stod, hlíf í deyd, og huggun efsta' í heimi.

## *III.*

Lagið: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

O minn Jesú! öll þín pína, alla sefar hrigð og neyð, huggast eg, þá

hörmúng þína, hugsa um og beiskann deyð; til lausnar allt því leiðstú mér, lát mig aldrei gleyma þér! þér, sem synda-sekt barst mína, saklausann þá léist þig pína.

2. Ef mér flýgur synd í sinni, svikult mín ef freistar höld, þú æ sért mér þá í minni, þar við krossinn stóðst á fold, hræddur, qvalinn, hatadur, huggun vina ersneyddur, fjetur synda' eg sæ þá slitið, og fullur viknun til þín litið.

3. Heims ef lyst mig glisleg ginnir, glæpa fram á 'breidann veg, gjálífis að glaum' eg sinni, gedhraustur, nei, segi eg; heims lyst Jesúm hengdi' á tréð; hins réttláta qvaldi geð, burt holds lyst úr brjósti mínu, bjó hún Lausnaranum pínu.

3. Ef mér ógnar ótti' og mæða, eg þá Jesú! með þér líð, mig þau ecki megna' að hræða, minnist eg þitt dauða stríð, þitt mér kénndi þolugt geð, þolinmæði' að sigra með; æ! eg vil þér eptir feta, efl mig bæði' að vilja' og geta.

5. Og þó hel á fund minn fari, fullöruggur samt er eg; þú, mín vernd og

minn Lausnari, máttir gánga sama veg; og þú vegsemd ávannst þér, en fékkst stad tilbúid mér, í þíns Födurs fridar ríki, finnst þar eckert bel né sýki.

6. Jesú! sál opt minntú mína, ad minna vegna blód þitt rann, kross þinn dauði, qvel og pína, qvittun synda' og lausn mér vann; þá skal öll mín æfi stund, offrud þér; en hels vid blund. þig mitt andvarp efsta prísa, upp ti dýrdar holdid rísa.

